miñ einaste Myskunare, fyrer þiina maatt=
ugu Naad, hefur þu vertad i miinu vonda
Hiarta, þu hefur umbreitt þvi og i sundur=
knosad þad, þu hefur giørt þad ørmagna
og Þwnga hladed, hwngrad og þyrst, dr=
eiged þad til JEsum, og giefid mier i Siñi,
ad eg i þijnum Krafti, hati allar Syndir,
og giefi mig þier til Eignar; Med þvi þetta
eru þau Kiennimerki, med hverium þu,
i þiinu Ordi, wtmaalar þiin til Naadar
tekinn Børn, þa trwe eg eirnig, ad þu haf=
er mig til Naadar tekid, og mier allar mijn=
ar Synder fyrergiefid; Þu hefur fyrergi-
efid mier þær af einskiærre Oforþientre
Naad og Myskunseme; alleina fyrer JE=
su fullkomna Forlijkunar Offurs Saker,
sem ad eilijfu gylldir; Þu hefur eitt Siñ
forlaatid mier allar miinar Synder, upp=
giefid mier alla mijna Skulld og afmaad
allar miinar Yfirtrodslur, so þu villt þe=
irra aldrei framar minnast, þu hefur rijk-
uglega forlaatid mier mijnar Synder, þær
voru yfirgnæfannlegar, eñ þiin Naad var

langtum yfirgnæfannlegre; Þu hefur ecki einasta uppgiefid mier miina Skulld, helldur eirnig i Stadinn fyrer Syndena giefid mier þad sanna Riettlæti, med hvert eg fæ ad eiliifu stadest fyrer þier. J Stadenn fyrer Daudann, hefur þu mier Liifed giefid, fyrir Bølvanina, Blessanena; fyrir Helviited, Himnariike. Þitt eiliifa Nadar-Ord kallar nu til miin, segiande: Vertu hughraustur, mitt Barn! Þiinar Synder eru þier fyrergiefnar, þu skallt lifa og ecke deya. Um þessa Oendanlegu Nad hefur þu lated mig vissann verda fyrer þinn Þienara, og þad er mier so viist eins og þu minn Frelsare hefder sialfur bersiinelega opinberast fyrer mier og sialfur veitt mier Aflausnena. Þvi þu seger wtþrickelega til þinna Þienara: Hverium hellst þier fyrergiefid Syndernar, þeim eru þær fyrergiefnar; Og aftur: Allt hvad þier leysid a Jordu, þad skal a Himnum leyst vera. Af eiliifre Nad og Myskun hefur þu insett þetta Forlijkunar Embætti a Jor-

 dunn

dunni, uppaa þad ein lifande Rodd være i þinne Kyrkiu, sem kynni ad hugga, styrkia og vissar giora oss aumar veikar Maneskiur um þijna Naad. Þar fyrer trwi eg, minn Frelsari, ad þetta Ord komi mier eirnig vid, sier i Lagi, og ad mijnar Syndir sieu mier algiorlega fyrergiefnar af Gude aa Himnum. O þu Omælannlega Myskunsemi! O þu Oendanlega Elska! O þu Outsegiannlega eilijfa Naad! Mijnar Synder eru mier fyrergiefnar. Æ minn Fader! Hvernig aa eg riett ad þacka þier, og hvernig fæ eg nægsamlega prijsad þitt Nafn? Eg hefe feinged Syndanna Fyrergiefning, Eg er ordinn riettlaatur, Dauda-Doomurinn yfer mier er apturtekinn, Lijfed er mier tilsagt, Eg er þitt til Naadar tekna Barn; þu ert minn forlijkte Fader, eg er nu þinn Erfinge, Guds Erfingi, jaa, eirnig Sam-Arfi Christi, hverium Lijfsins Corona er vissulega affijdes aflagd i þeirre eilijfu Dijrd. Æ minn trwfasti Gud, Eg undrast yfer þessari Yfir-

stoot-

fliotannlegu Raad; Æ DRottenn, eg er langtum minne, langtum minne, jaa miog langtum minne ollum þessum stooru Myskunsemdum; Æ tak mig nu alldelis, til ad vera hier Losgiordar og Þacklætis Offur og þinn Eiginndoomur, og hondla vid mig, leid og flit mig lijka sem hier þocknast: Gior mig riett-trwann a þijnum Vegum, so eg einasta life hier, einasta deye hier, og einasta sie þijn Eign i Lijfe og Dauda, og um alla Eilijfd, Amen.

## Bæn fyrer Bergingunna.

DRottenn JEsu Christe, minn allra dijrmætaste Frelsare, aalijt mig med þijnum Myskunar Augum, og veit mier verduglega ad faa medtekid þinn H. Lijkama og þitt dijrmæta Blood. Eg hef eingann Verdugleik af sialfum mier, þvi eg er aumsyndug Manneskia; Enn Drottenn gief mier þinn Verdugleika, þitt Riettlæti, sem þu hefur afrekad mier med þinni Pijnu og þijnum Dauda, sem þu hefur

fyrir mig i Lioos leidt i þinni Upprisu, sem þu hefur lofad øllum þeim, af Hiarta trwa a þig, sem alleina gyldir fyrer Gude. Þetta Riettlæti medtek eg nu fastlega i Trwnni, og umvef mig þvi sem dijrdlegu Klædi, i hveriu mijn Saal kann skarta, og so sem dijrdlegri Kaapu, er alldeilis kann skijla mier; Þetta þitt Riettlæti, Drottenn JEsu, skal vera mitt Brwdkaups Klæde, i hveriu eg vil koma fram ad þinu Naadar Borde, þa mun eg verdugur verda, fyrer þinn eiginn Verdugleika, til ad eta þinn Liikama og drecka þitt Blood. Læt þessa himnesku Fædu, verda mier sanna Liifsins Fædu, styrk þar med mina veika Trw, sameina mig i Dag vid þinn Anda, og gief mier nijann Krapt til þess sanna andlega Liifs, sem af Gudi er, so eg i Guds Otta vaxe og þrooest og sie þier trwr allt til minnar sæluhiælplegu Endalyktar, Amen, i JEsu Nafni, Amen.

## Bæn eftir Berginguna.

EG þacka þier ODrottenn JEsu Christe, fyrer þaa Outsegiannlegu Naad, sem þu hefur veitt mier i þeirri H. Kvølldmaaltijd, þu hefur giefid mier þinn Lijkama til Fædu, og þitt Blood til Dryckiar. O þu Ogrijpannlega Elska, Eg aa nu oll þau Saaluhiaalparinnar Giædi, sem þu hefur mier afrekad; Nu ertu minn, og eg er þinn, eg er vid þig samteingdur, eins og Kvisterner vid Wijntried, i þier hef eg Riettlæti og Styrkleik, miñ Skijrnar Saattmaali er endurnijadur, þvi þu hefur innvijgt mig til þeirrar sælu Eilijfdar. Eg mun ecki deya, helldur lifa. Þar fyrer lofa ODrottenn, mijn Saal, og allt hvad i mier er hanns H. Nafn, lofa þu ODrottenn, mijn Saal, og gleym ecki neinu af ollu þvi Gooda, sem hañ hefur giort vid þig, hañ sem fyrergiefur þier allar þijnar Synder, og græder allar þijnar Meinsemder, hann sem frelsar þitt Lijf fraa Fordiorfuninne, og koronar þig med Naad og Myskunsemi; Æ ODrottinn, laat mig alldrei hiedan af

 gley-

gleyma þijnum Velgiørdningum, haf þiñ Bwſtad i mier, og verka þad fyrer þijna Naad, ad eg deye fra þvi Vonda, og vaxi i þvi Gooda; lat mig hier efter framganga i þijns guddoomlega Lifs og Lijfs Krafte, og i Mætti þijns Styrkleika, til ad yfirvinna alla mijna andlega Ovine. Vardveit mig sem þijna eiginn Eign, þa þig hefur kostad þitt eigid Blood, ad einginn fai mig slitid wr þinni Hendi; Lat mijna Trw vera verkande i Kiærleikanum, og gief mier Naad til ad vera þier trwr allt til Enda, og odlast Coronu Lijfsins. Drottenn JEsu, heyr mijna Bæn, þa vil eg lofa og prijsa þitt dijrdarlega Nafn um alla Eilijfd, Amen.

# Morgun Bæn,

## Þañ Dag Madur geingur til Altaris.

O hverſu þægilegur Dagur er þetta, sem þu minn himneski Fadir hefur nu latæd

ed yfer mier a Liife upprenna; Þetta er sa Dagurinn, sem DRottenn hefur giørt, stoor Forliikunar Dagur, a hveriumm eg vænti, minn Gud, vid þig forliiktur ad verda, þu hefur giefid mier ad þeckia Vondsku minna Synda, og vegna þeirra gudlega Hrygd i Hiartad; og alvarlegt Hatur a þeim, fyrir Verkan þinnar Oforþientu Nadar, med Hungri og Þorsta efter mins Frelsara JEsu Rietlæti; þvi trwe eg þu munir i Dag, af þinne eilíifu fyrerheitnu Naad fyrergiefa mier allar miinar Synder; og laata þinn Þienara giefa mier Fullvissu þar um, og hana siidann mier stadfesta og innsigla med þeirre H. Kvølldmaaltiid. A þessum Degi a minn Skiirnar-Saattmaali ad endurniiast, a honum mun eg koma i Lambsins Brwdkaup, ad miin Trw styrkist, og mitt Hiarta verdi Musteri JEsu Christi. O, þetta er sæll Dagur; Nottinn er burtviken, og Soolinn er upprunninn i siinum Blooma: Minn Fader, þu burtdriifur

miina Synda Noott, og Sool Riettlæt-isins JEsus Christus mætir mier, ad hañ upplioomi mig med siinu Liosi; og liifge mig med siinum Krafti; Eg mæti þier, minn Frelsari, sem Myrkred Liosinu, sar siwki Læknaranum, saa hwngrade Fæd-unne, Þursamadurinn Velgiørda-Mañ-inum: Eg kiem vesæll og aumur, Mætt-vana og þiakadur. ÓDrottinn! burttak miinar Synder, asamt med miinum Myrkrum, Siwkdoomum, Eymdum og Fatæki, og laat þiina Myskun veitast mier i Dag rijkuglega; Uppfyll mig med þinne Naad, þvi eg vona aa þig. Vard-veit mitt Hiarta, ad eg verdi ecki vidskilia vid þig, og set þig i moot Dioflinum, ad hann med siinum Ahlaupum saae þad hv-erki saurgad nie villt. Skriid mig med Kyrtle Riettlætisins, so eg komi til þijns Naadar Bords, klæddur þvi rietta Br-wdkaups Klædi; Endurnær mig med Naadar-Giædum þijns Hwss, og gior mig verdugann til ad neyta þiins Lijkama og

Bloods, gief eirnig ollum odrum, sem i Dag nælgast þitt Bord, Lioos, Krapt, Naad og Blessan, ad þeir enn nækvæmlegar sameinist vid þig; Tilreikna þad ei þiinum Bornum, þo þiiner Oviner, sem Hræsnarar, kunni ad innsmeigia sier i þeirra Selskap, þvi þau andvarpa þar yfir, ad Yllgresid stendur medal Hveitisins; Slaa maattugt Naadar-Slag a Hræsnis-Giestanna Hiortu, og uppvek þa kroftuglega heim til Frelsis. O þu H. Ande! Laat þennann Dag vera mier Naadar-Vitiunar Dag, og verka fyrer þiñ Krapt allt þad i mier, sem þier er þocknanlegt; Visa mier Veg med þijnum Naadar Verkunum til DRottins Hwss, i þvi til mijns Frelsara Bords, og þadañ heim aptur, uppfyll mig med Gudrækni, andlegu Hwngri og Þorsta, Krafte og Naad, og vidhallt mier til eilijfs Lijfs, Amen.

## Kvolld Bæn,

## Þañ Dag Madur hefur geingid til Altaris.

HEilage Þrij-Eine Gud! Fyrer þijna Naad hefi eg nu miog mikilsvirdann Dag, fyrer mitt Lijf, ovtvalid; Þu hefur i Dag veitt mier so marga lijkamlega Velgiorninga, ad eg fæ þaa ecki talid; Enn þeir andlegu, sem þu hefur veitt mier, eru Oendanlega stærre, og meira verdir; Þu hefur uppfyllt, huggad og styrkt mig med þijnu H. Ordi, og mettad med mijns Frelsara JEsu Holldi og Bloodi; Eg er nu þitt Musteri og þinn Bwstadur, oll þim Naadar Giædi eru mier giefinn, og oll þijn Naadar Fyrirheit eru um̃ alla Eilijfd vid mig stadfest; Og þo eg hafi ecki eñ þaa i Dag verid frij fyrer Syndinni, helldur i morgu brotlegur verid, og þitt Logmaal yfirtrodid, samt veit eg ad þu myskunar þig yfir mig, og forlætur mier allar mijnar Syndir, fyrir Sakir þess fullkomna Forlijkunar Offurs JEsu Christi, hvers,

vegna

vegna eg bid audmiwklega af Hiarta um allra minna Synda og Avirdinga Fyrergiefning. Hvernig fæ eg nu nocgsamlega þackad þier, minn Gud, fyrer alla þijna Naad og Myskunsemi, sem þu hefur mier i Dag audsynt. Tak allt mitt Hiarta, minn Anda med øllum sijnum Krøftum, og minn Lijkama med øllum sijnum Skilningarvitum og Limum, og lat þetta allt vera þier til Lofs og Dijrdar efter þvi sem þier þocknast. Upplijs minn Skilning med þijnu Liosi, og gled mijna Samvitsku med þijnum Fridi, helga minn Vilia med þijnum Krafti, og lat mig jafnann vera þinn Bwstad. Endurnær mijna Krafta i Nott med roosamlegum Svefni, vernda mig og mijna fraa allri Olucku, vardveit mig fyrer syndsamlegum og Ognarlegum Draumum, og lat mig a Morgun aftur uppstanda eftir þijnum naadugum Vilia þier til Dijrdar! O Drottinn vertu mier naadugur, og heyr mig fyrer þijns eilijfa Kiærleika Saker, Amen.

# II. Reglur og Bænir fyrer siwkan Mañ.

Reglurnar eru Þreñslags.

## 1. Vidkomande Sæluñe.

I.

Strax sem þu ert siwkur ordenn, skalltu proofa þiñar Sælar Asigkomulag, hvert þu ert i Guds Naad edur ecke; siertu i Nadeñe, þa þacka Gude; siertu ei i henne, þa flijt þier ad giora Ydran til Frelses þinne Sælu.

2. Drag ecke undañ ad læta kalla til þijn i Tijma Guds Þienara, fyrr enn Siwkdoomur þinn hefur femged yfir=Hønd, ei helldur ad læta hann þa vita þiñar Sælar Asigkomulag, so hañ giete undervijsad þier i þinne Naudsyn, hverning þu skuler bwa þig under þa sælu Eilijfd.

3 Bijd ecke frañ til þinnar sijdurstu Stundar ad neyta þeirrar H. Kvølld=

mæltijdar DRottens, so þu giörer þad æduer enn þu hefur mist Krapta til saňarlegs Underbwnings.

4. Slijt þitt Hiarta laust fra Veralldlegum Þaunkum og Umsvifum, enn lat þad, sem mögulegt er, vera fast vid þær Hlute, sem Eilijfdenne eru vidkomande.

5. Lat þijna Þanka ei dreifast fyrer þeirra Skraf, er þijn vitia, helldur affaka þig fra þeirra mikelle Umgeingne.

6. Sie þinn Siwkdoomur ecke til Dauda, stunda samt til hann verde nytsamlegur fyrer þijna Saal, ad þu styrkest i Nadenne, Trwñe, Heimsins Afneitan og himneſku Siñe.

7. Menn eiga ad lata christeñ Mañ sofna i Kyrdum i DRottne, enn mæda hañ ecke med Grate nie Skvalldre, helldur minna hañ stökusinnum a eina og adra Huggunar-Grein wr Guds Orde, til Styrkingar hanns Trw.

## 2. Vidkomande Lijkamanum.

1. Hafer þu siälfur ordsakad þier þiñ Siwkdoom med einhverre illre Breitne, so sem, Ohoofe, Saur-Lijfe, Offa, Ofdyrfd, Akafa, og þess hättar, þaa bid Gud med Audmiükt og sannre Ydran um Fyrergiefning a þeirre Synd, ei siidur enn odrum.

2. Nijt þier Læknereñ og Medoleñ, epter Guds þocknanlegum Hætte, og vel þier þañ reindurer, higgeñ og gudrækeñ, aan Of-Trausts, og allskyns Hiaa-Trwar.

3. Ber Siwkdoomsins Þijngsle med Þolennmæde, og bid Gud ad giefa þier hana, so þau verde þier liettbærare, og þu hæfelegre til ad umgaangast aan Moglunar med Gude.

4. Utvel þvilijkt Foolk, til ad þioona þier i þiinum Siwkdoome, sem er til Uppbyggingar þinne Saalu, og ad minsta koste, ecke hindrar þig i þinne Gudrækne, med hneixlannlegum Ordum og Verkum, Mælge, Oþoleñmæde, og þessu liiku.

## 3. Vidkomande þvi Epterlaatna.

1. Hafe Gud giefed þier Konu, Börn og Hiw, þaa haf Umhygglu fyrer þeirra sonnu Velferd, bæde til Liifs og Saalar, allt til Enda, ad aaminna þau ug til Guds Otta, blessa þaug og fela Gude aa Hendur, velia þeim frooma og gooda Forstodu-Menn, og koma i Veg fyrir allar Prætur, sem verda kunna um eptirlaatna Femune.

2. Hafer þu lifad i Ovinaattu vid nockurn Mann, þaa forlijka þig strax vid hann aa medan þu ert enn aa Veige med honum, ad þu bidier hann Forlaats og forlaater honum.

3. Hallder þu ine hia þier raangfeingnu Fie, þaa gief þad aptur fraa þier til baka, anadhvert sialfur edur fyrer þijna Erfingia, aadur enn þu kiemur fram fyrer alls Hollds Doomara.

4. Þeir giora vel sem minnast aa faatæka aa sinne sijdurstu Tijd, hafe þeir þau Efne, ad Erfingiarner sieu sæmelega

særer epter.

## Bæn fyrer Aflausnena.

DRottenñ JEsu! þu seiger: Eg er DRottenñ, þinn Græðare; Eg er siwkur, og hefe Læknarans Þorf, þar fyrer flij eg til þijn, og bid þig audmiwklega að þu vilier hiaalpa mier, eg er ecke einasta siwkur aa Lijkamanum, helldur eirnig aa Saalunñe, þvi Syndenn hefur so illa wtleikeð mig, að eckert er heilbrygt aa mier, Jaa, minn lijkamlege Siwkdoomur er eckert añað enn hryggelegar Eptersstoðvar Syndarennar; Æ minn Frelsare! Eg veit hverge annars staðar að flija, eñ til þijn; Eg er miog saarsiwkur, og aumur, og mitt Hiarta er saart; Hiaalper þu mier ecke, þaa er eg að eilijfu fortapaður. Æ myskuna þig yfir mig, og verka það fyrer þinñ Anda i minne Saalu, að eg sie nij Skiepna i þier! Gior mig umfram allt heilbrygdann aa Saalunñe, með allra minña Syndá naaðarsamlegre Fyrergiefningu, með

þinñe

þinne Hugsvolun og Endurnæringu, med þijnum Styrk og Krapte; Enn lát miñ lijkamlegann Siwkdoom fá þann Enda, ad hañ gagne mier til Sáluhiálpar! Eige eg ad fá aptur mijna Heilsu, þá gief mier Náud til ad deya jafnann frá Syndeñe framveigis, og offra öllu miinu Framferde hier til Eignar; Eñ eige eg ad deya af þessum Siwkdoome, Æ, þá gief mier Sáluhiálplega Endalykt! Þvo mig og hreinsa med þijnu Bloode af öllum mijnum Syndum, og lát mig fyrer þiñ Þienara verda alldeiles fullvissañ af Andans Vitnes-Burde um allra miña Synda Fyrergiefning! O Drottenn JEsu! bænheyr mig, þá vil eg prijsa þig æ og ad eilijfu, Amen.

## Bæn epter Aflausnena.

Miñ Lijkame er siwkur, eñ miin Saal er heil. Æ minn Gud! hversu stoor er þiin Myskunseme? Eg ákallade þig i minne Synda Neyd, enn þu bænheyrd-

er mig, og fyrergafft mier af þinne Naad, allar mijnar Synder, fyrer JEsu Christi saker. Þu hefur laated giøra mig fullvissann um̃ það, fyrer Embætte Forlijkunarennar, hvert þu af þinne Oendanlegu Elsku hefur sett æ medal vor, þeim veiku Manneskium til Trwar, Styrkingar, ad eg sie vid þig forlijktur. Æ minn Gud! styrk mig i Trwunne, ad eg hiedan af stadfastlega halldest vid þig, og sie þier trwr, allt til mijns Sæluhiælplegs Enda! Lofad sie þitt Nafn, og oll Verolldenn sie full af þinne Dijrd, Haleluja!

## Bæn fyrer Bergingunna.

DRottenn JEsu! mig langar epter þier, þijn Naad er betre enn Lijfed, þvi mitt Liif være einunges Daude, være eg eckel þinne Naad; Min̄ Frelsare, þu hefur innsett þaa heilogu Kvølldmaaltiid, ad hun sie Naadar Medal til Lækningar minne siwku Saal, og til Styrkingar min̄e veiku Trw. Æ myskuna þig þaa

yfer

yfir mig, og lꝏt mig verduglega faa med teked þinn Lijkama og þitt Blood, so eg verde hlutiakande i þeim Saaluhiaalparennar Giædum, sem þu hefur mier afrekad. Eg er veikur, og giet ecke med slikre innelegre Gudrækne upplyypt minu Hiarta til þijn, sem eg giarnann ofkade. Æ haf Þolennmæde vid minn Breiskleika, og bæt miina Breste fyrer þitt fullkomna Forliikunar Offur. Eg helld mig vid þijn Fyrerheit, ad þu vilier ecke alldeiles sundurbriota þann brakada Reir, ei helldur utslockva þann riwkande Hor-Kveik, þvi muntu hafa Þolennmæde vid mig aumann. ORottenn! Endurnær mig med þinne Naad, þaa vil eg priisa þitt mikla Nafn um alla Eilijfd, Amen.

## Bæn epter Bergingunna.

Æ Minn trwfaste Frelsare! Nu hefur þu aa nij hiartanlega teked miina Saal ad þier, so hun ecke fyrerfarest; Þu hefur mettad mig med þiinum Lijkama, og dryck=

dryckiad mig med þinu Bloode, og under eins giefed mier Riettlæted, Lijfed og Saaluhiaalpena. Hvernig fæ eg aum og veik Manneskia noogsamlega þackad þier fyrer þennañ O-wtseigianlega Velgiør-ning? Æ medtak i Raad mitt fæ(?)tæklegt Packlætes Offur; Laat mig nu vel styrk-iast i þeim innra Manne, so þeim ytra Mañenum fare hnignande; Eg er forliik-tur vid þig, þvi vil eg einunges vera þiin Eign i Tijma og Eiliifd. DRotteñ JE-su! Þier life eg, þier dey eg, þinn er eg bæde Lijfs og lidenn. Gior vid mig i mii-num Siwkdoome liika sem þier sialfum þocknast, enn laat mig einasta verda eiliif-lega Saaluhoolpenn, þaa vil eg priisa þig og þiinu Nafne Dyrdena giefa, um̃ alla Eiliifd, Amen.

# Andvarpaner,

A hverjar saa siwke sie daudvona minntur med laangsamlegre Stillingu end-ur og siñum, meiga vera þessar og þvilijkar.

DRott-

DRottenn JEsu! i þiinar Hendur fel eg minn Anda, þu hefur mig endurleyst DRottenn þu trwfaste Gud!

Æ JEsu Sonur Davids myskunna þu mier!

JEsu Christi Guds Sonar Blood hreinsar oss af ollum vorum Syndum. Angist miins Hiarta er stoor, leis mig af minne Neyd!

Aliit miina Eymd og Hormung, og fyrergief mier allar miinar Synder.

Liika sem Hiortenn lꝏngar epter fersku Vatne, so lꝏngar miina Sꝏl til þiin minn Gud!

Eg veit minn Endurlausnare lifer!

Christus er mitt Liif, og ad deya er mier Abate!

Eg hefe Gyrnd til ad leisast hier frꝏ, og vera med Christo!

Nu lꝏttu DRottenn! Þinn Þioon i Fride fara, þvi miin Trwar Augu hafa sied þitt Hiꝏlpræde.

Ur

# D. JOH. ARNDTS

## Paradysar Aldingardi.

### 1. Packarglord fyrer Jnnsetning þeirrar H. Kvølldmaaltiidar, og Bæn um heñar verduga Brwkan.

JEsu! Bliide, Elskurike, Goodgiarne, Astwdlege DRottenn JEsu Christe! Hversu stoorann Kiærleika hefur þu audsynt oss i Jnnsetningu þeirrar H. Kvølldmaaltiidar, ad þu mettar oss so med þiinum heilaga Liikama og dryckiar med þiinu heilaga Bloode? Hvad kann huggunarsamlegra ad segiast enn þetta Ord: Hver sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hañ bliifur i mier og eg i hønum? Hvad er huggunarsamlegra enn ad bliifa i Christo? Hvad astwdlegra enn þad, ad þu bliifer i oss? Bliifum vær i þier og þu i oss, hvad kann þa Daudenn og Diofullinn ad skada oss? J þier erum vier Ohult-

er fyrer allri Olucku. Æ minn Gud og DRottenn! Hvad er eg þess, ad þu giefir mier þig til Fædu og Dryckiar? Eg er Molld og Aska, fwlt Kier, og þu leggur i þad so diuran̄ Festood. Þar af þecki eg þiina stooru Elsku, ad þu hefur giefid mier so stoorann Kiærleiks Pant, hverium einginn gietur stærri ordid a Himne nie Jørdu; Andans Pant hefur þu ad sonnu giefid mier, so eg þar af þecki, ad eg sie Guds Barn, en̄ i þeirre H. Kvolldmaaltiid giefur þu mier þiins Liikama og Bloods Pant, so eg þecki þar af, ad þu ert minn Brooder, mitt Holld og Blood. Hversu vegsamlegann og stoorann Vitnisburd, um̄ miina Endurlausn, giefur þu mier i þeirri H. Kvolldmaaltiid, þitt Blood, sem a Jørdu þar um̄ vitnar; þvi þoott H. Ande sie þitt Vitni i voru Hiarta, þa samt hefur þu viliad giefa oss wtvortis Vitne og Jn̄sigle vorrar Endurlausnar, þitt Blood, sem asamt vitnar og kallar i voru Hiarta: þar med hefur þu viliad koma til Hi-

aalpar

[s]alpar vorre veiku Trw, þvi þo þitt Ord styrke kroftuglega i Trwnni, verdur samt Hugguninn kroftugre, nær vier heyrum þetta Ord: Þad er minn Lïkame, sem fyrer ydur verdur giefinn, þad er mitt Blood, sem fyrer ydur wthellist til Fyrergiefningar Syndanna. Þar fyrer, mitt Hiarta! Hvad hryggest þu, hvad efast þu, hvad Ottast þu Daudann og Fyrerdæminguna? Er ecke þinn DRottenn og Endurlausnara fyrer þig dæidenn, og hefur giefed þier i Pant þinnar Endurlausnar sinn H. Lijkama og sitt H. Blood, og i Pant sinnar hiartanlegu Elsku og Sameiningar vid þig, so hverki Daude nie Lijf fær þig vid hann skilid? Æ minn Gud og DRottenn! Kienn mier ad ihuga med hvad audmiwku Hiarta eg ä ad medtaka þennann dijra Festiovd! Æ eg, sem er Ohreinn, kiem til Uppsprettu alls Hreinleika, aumur og þurftugur til hins Rijka, Syndarinn ad Nadar Brunninum, siwkur til þess rietta Læknirs, og hungrad-

ur

ur og þyrstur til þess rietta Himna Braudi og ad Brunne Lijfsins. Enn þu hiñ allra-heilagaste kiemur til hins Oheilagasta. Hvar hefur heyrst so undrunarsamlegur Kiærleiki, ad DRottinn allra Drottna kiemur til eins vesæls Þurfa-Mañs, ad so vesæl Eymdar Manneskia eignest DRotteñ Himens og Jardar til himneskr Matar og Dryckiar. Æ laat mig alldrei gleyma þessum Kiærleika, laat mig aan Aflaats vera minnugann þinnar Pijnu og þijns Dauda, ad mijn Saala þar med aa andlegann og himneskann Haatt mettud og dryckiud verdi til þess eilijfa Lijfsins; Þvi i þinni Pijnu og þijnum Dauda er þad allt sem mijna Saal gietur endurnært, og efter hveriu hana kann ad hwngra og þyrsta. Æ! tilreid mig verduglega fyrir sanna Trw, sanna Yfirboot, Elsku og Audmykt, ad medtaka þennann dijrmæta Fesiood. Hversu fagra Tialldbwd og fagurt Musteri tilbiuggu Moses og Salomon fyrer Naadar-Stoolenn? Æ, bw

mijna Saal med Lioosi Andans Alvoru, Gulli og Glansa Trwarinnar, fogrum Tioldum Elskunnar og Litilætisins, og med Coronu Vonarennar og auk og styrk i mier allar andlegar Gaafur; þvi hvernig kann miin Trw betur ad styrkiast, eñ nær Syndanna Fyrergiefning verdur med Christi Bloode innsiglud og skrifud i mijnu Hiarta? Hvernig kann Elskann til Guds og mijns Naaunga framar i mier ad procast, enn nær miñ DRottenn JEsus Christus fyrer siñ Lijkama og sitt Blood, samtenar sig vid mig og alla Trwada, og giorer oss ad einum Lijkama? Hvernig kañtu elskulegi DRottenn! betur ad styrkia og krostuga giora mijna Von, enn med þvi ad fæda mig, med Odaudlegre Fædu til eilijfs Lijfs? Æ miñ DRottinn Gud, eg bid þig audmiwklega, med þvi þu ert ordenn mitt Holld og Blood, lat mig elska allt hvad þier er þocknañlegt; Lat þiñ Vilia vera miñ Vilia, og hvad þier er amooti, mier a mooti; Mitt Holld og Blood er þitt, og þitt Holld og Blood er mitt; lat mig þar

fyrer ei vanbrwka þad til Syndar, helldr einungis þier til Heidurs og Þocknunar; Læt mig eirnig fyrer þijns Hollds og Blods Kraft viliugre og styrkare verda minn Kross ad bera, i Hormungunum þolinmodann, i Forsinœnenne lijtillœtann, i Mootgiordunum hoogværann, i Kiærleiks anum brennande og stadfastañ, og i Bæn inne alvorugiestinu i Andanum, ad eg alla Tijma siñe Kraft þijns Hollds og Bloods i mijnu Lijferni, og Avexti þinnar Endurlausnar i minne Trw Avexti færandi, Am.

## 2. Bæn fyrer Medtekning þeirrar heilögu Kvølldmaaltijdar.

DRottenn JEsu Christe, minn trwfasti Hyrder og Biskup minnar Saalar, sem hefur sagt: Eg er Lijfsins Braud, hver af mier etur, hann mun ei hwngra, og hver a mig trwer, hann mun alldrei þyrsta; Eg kiem til þijn og bid þig audmiwklega, ad þu vilier mig fyrer sanna Trw tilreida og giora verdugann Bordgiest vid þessa himnesku Maaltijd, þiñ vesæla Sa-

ud føodra i Dag i Þijnu græna Haglendi, og leida mig fram̃ ad lystelegum Lijfsins Vøtnum, mijna Saal endurnæra, og leida mig a riettre Braut, fyrer Saker Þijns Nafns, Þijns Bords mig verdugañ giora, og skeinka Bikar Þinnar Elsku og Naadar, fullann fyrer mig; Eg saarad Saudar-Kind kiem i Þitt Haglendi, til Lifsins Brauds, til lifande Brunna. Æ Þu sanna sæta Himna-Braud, uppvek i mier andlegt Hwngur og H. Þorsta, ad eg kalle epter Þier, sem Hiorturinn epter fersku Vatni; Enn um̃fram̃ alla Hluti, gief mier hiartanlegt Angur og Trega fyrer mijnar Synder, og legg yfir mig Þad rietta Trwarinnar Brwdkaups Klædi, fyrer hvert eg faai til mijn tekid Þijna Forþienustu, og veit mier eg faae Þvi fagra Klæde fastlega halldeð, og Þad geymt, so eg verde ecke Overdugur Giestur. Gief mier audmiwkt forlijkunarsamt Hiarta, ad eg af Hiartans Grunni mijnum Ovinum forlaati, afmaa i mijnu Hiarta Rootalls Be-

yfk-

ÿsklyndis og Ovinskapar, enn innplanta aptur i mijna Saalu Elsku og Mijskunsemi vid minn Naunga, og ad eg elske alla Menn i þier. Æ þu saña Paaska-Lamb, vertu mijn Fæda; Laat mig neyta þijn og af þier eta med beysku Salti hiartannlegrar Ydrunar, og med Osijrdu Braude heilags Lifnadar og Yfirbootar. Eg kiem til þijn, hladinn miklum Saurugleika og fram fyrer þig med Ohreinum Lijkama og saurugre Saalu, fullum af Lijkþraa og Anstygd; Æ hreinsa mig þu hærsti Hreinleike. Þinn H. Lijkame af Krossinum ofanntekinn var sveipadur i hreinu Lijne: Æ Gud giefi eg faae þig so med hreinu Hiarta medtekid, sem þier er vel þocknannlegt; Æ ad eg medtaki þig med H. Hiartans Alvorugiefne, vefie þig i minne Elsku, og smyrie þig med Myrru, sundurknosads Hiarta og Anda: Himna Brauded var lagt i gullegu Ílaate i Saattmaals Orkina, til Minningar: Æ Gud giæfi, eg faai þig geymt i alldeilis hreinu Hiarta. Æ

minn DRottenn! Þu hefur sagt: Heilbrygðer þurfa ecke Læknarans vid, helldur þeir, sem siwker eru; Æ, eg er siwkur, og þarf þiin vid, minn himneski Saalar Læknir; Þu hefur sagt: Komid til mijn aller þier sem erfided, og Þwnga erud hladner, eg vil endurnæra ydur; Æ Drottenn, eg kiem hladenn af morgum Syndum, tak þær fraa mier, og gior mig lausan vid þessa stooru Byrde; Eg kiem Ohreinn, hreinsa þu mig; blindur, upplijs þu mig; faatækur, audga þu mijna Saalu; tiindur, leita þu ad mier, og fordæmdur, enn gior mig hoolpinn. Æ JEsu, minn elskulegasti Saalar Brwdgumi, leid mig fraa sialfsum mier, og tak mig ad þier og inn til þiin, Þvi i þier life eg, enn i mier sialfsum dey eg, i þier verd eg riettlaatur, enn i mier sialfsum er eintoomis Synd, i þier verd eg hoolpinn, enn i mier fordæmdur. Æ minn himneske Brwdgume kom til miin, og vil leida þig inn i mitt Hiartans Herberge, þar vil eg kissa þig, so einginn hæde mig.

Fær mier med þier Sætleika þinnar Elsku, Ilm þiins sæla eiliifa Liifs, Smeck þiins Riettlætis, Fegurd þinnar Vinsemdar, Yude þinna Audæfa, Priide þiins Liitelætis, og Avexte þinnar Mysk-unar. Æ minn himneski Læknir, eg fære þier dauda Saal, liifga þu hana; siwka Saal, lækna þu hana, og toomt Hjarta af ollum sannarlegum stodugum Dygdum, uppfyll þad af þinne Naad, þiinum Anda og Kiærleika, þinne Hoogværd, Audmykt og Þolinnmæde. Æ þu sanna Liifsins Braud, sæd mig til þess eiliifa Liifsins, so mig hwngri ecki nie þyrste eiliif-lega. I þier hefi eg fulla Nægd, bliif þu i mier ad eiliifu, og laat mig ad eiliifu i þier bliifa, so sem þu hefur sagt: Hver sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hañ bliifur i mier og eg i honum, og eg mun uppvekia hann aa efsta Dege, Amen.

### 3. Þackargiørd efter Medtekning þeirrar H. Kvolldmaaltiidar.

Væ mästwoblege, elskuriske, sæte, hiartkiære, Drottenn JEsu Christe! Eg sege hier af Hiarta Þacker þar fyrer, ad þu hefur sadt og endurnært mig med þeirre kostulegu dijrmætu Fædu og Dryck þijns H. Lijkama og Bloods: Æ, hver er eg þess, ad þu hefur virdt mig Overdugann til ad eta vid þitt Bord? Eg þacka þier fyrer alla þiina Elsku og Trwfesti, fyrer þijna Manndooms-Tekningu, þitt H. blijda Evangelium, þitt Dauda-Strijd, og þinn blooduga Sveita, fyrer alla þijna H. Pijnu, þijn Hogg, þijna Smaan og fyrer þær Hrækа þu þoldir, fyrer þijna saaru Hwdstrijking, og kvalafullu hvøssu Þyrne-Coronu, fyrer þijn Saar og allar þiinar Kvaler, fyrer þijn Taar og þijnar Andvarpaner, þijna Angist og Krossfesting, þinn aumkunarlega Dauda, og fyrir alla þijna Velgiørninga, sem þu hefur mier þar med afrekad, fyrer Løgmaalsins Uppfylling, Syndanna Fyrergiefning, þæ fullkemnu Borgun og Fullnustu fyrer allar mijnar Misgiørder, For liik-

lijkunena vid þinn himneska Fodur, mier wtvegad og giefid Riettlæti, Helgun H. Anda og þad eilijfa Lijf, hverra Velgiörninga þu hefur giört mig hluttakande fyrer Trwna, og vissann um̃ þaa fyrer þann dijra Pant þyns Lijkama og Bloods i Sacramentinu; Æ hvernig gatstu giefid mier stærri Pant uppaa þinn Kiærleika og Fullvissu um̃ miina Endurlausn, Syndanna Fyrergiefning og þad eilijfa Lijf? Gief eg gleyme alldrei þessari þinni miklu Elsku ad eilijfu, og minnest jafnann aa þiñ H. Dauda; þinn H. Lijkame og þitt H. Blood helge og blesse minn Lijkama og miina Saal, og vardveiti mig fraa allre Synd; Æ miñ Endurlausnare og Saaluhiaalpare! Lifdu i mier og eg i þier, bliif þu i mier og eg i þier; Rek burt wr miinu Hiarta allar Odygder, og halltog bygg alleina mitt Hiartans Hws; miin auma Saal hefur trwlofad sig þier, sem Brwdur, þu hefur þig eirnig vid hana trwlofad og sameinad ad eilijfu. Hun er nu Or-

 otts

vtning ordinn, þui hun hefur feinged þañ, sem er Kongur allra Konga fyrer eiginn Mann, hvar fyrer skyllde hun þaa aptur giora sig ad Þernu margvijslegrar Syndar og Saurgunar, hvar fyrer skyllde hun aptur vilia missa sinn Gofugleik fyrer Onytiu og Hiegooma Syndarinnar, og giora sig sialfsa soddañ Konunglegs Gifti-Maals Overduga? Æ bw þu og pryd miina Saalu med andlegu Skarte og himnesku Skrauti, med sterkre Trw og gloandé Kiærleika, brennande Von, ægiætu Liitillæte, heilagre Þolinmæde, heitre Bæn, bliidre Hoogværd, og innilegri Eftirlaungan til þiin, og eftir þui eiliifa Liife, ad eg vid þig alleina ærstwdlegann Fielags-Skap hafe, og med þier ete og drecke, sofe og vake, lifeog deye, og þu hiaa mier og i mier, og eg hiaa þier og i þier ad eiliifu bliife, siifeldt med þier eti og drecki, um þig tale, synge og segie, til þiin aan Aflaats þeinki, og so i þessare Trw burtsofne, æ effta Dege gledelega uppriise, og inngaange i eiliif-

aň

ann Fognud, Amen.

## Audmiwkt Synda Jatning ad ur Madur gengur til Guds Bords.

Ton, Nu bid eg Gud þu nader mig, etc.

HVert er miñ Gud i Naudum nu, nǽr ekur Von til ad hialper þu? Vill ad Hormungar Hrooped mitt, hlijda Myskunar Eyra þitt? Mun eg Veralldar Vónd sku fra, verda skilinn og Kvittun fa? Skal eg slijkt bora þverbrotiñ, þier fyrer klaga, JEsu minn?

Ellegar villtu ecke mig, alijta meir, sem stygdi þig? Þinn ad vijsu eg þeckta Riett, þo var mier Syndenn nærsta liett, Satans Fortolum fanginni, fylgda eg raungum Lifnad þvi, heyrda eg Nadar Hroopid þitt; hvert er, Von til þu agtir mitt?

Gott hia mier finna eckert er, allra slijðst þad sem gediast þier, ecke ad sijdur Augunn mijn, augliisa skulu Hiartans Pijn, Tarum þrutinn og Tregafylld, trwud

frambera mijna Villo, Kinnurnar væte eg Eymdum i, angrædum Þanka til Þijn snij.

Syndanna vegna særdur eg, sorgande græt og tæirast mieg, helldur vil eg þad HErra minn, enn hlæa med þeim, sem Vikar þinn, lijtels agta og lasta med, lættu mig hafa Peturs Sied; Mæske DRottenn þu þyrmer þæ, þegar Sælunne liggur æ.

Skule eg minum Munne med, minnkast tilreida Andvarped, Avi! hann hefur oft og tijdt, illa vanbrwkad Nafned þitt: Hversu mörg Þusund Oþorf Ord, Aunndunne hafa bruggad Mord? Hver kann ad telia Hollдlegur, hvad opt hanns Twnga misbrijtur?

Nær eg' ætte ad þacka þier, og þijnar prijsa Dæsemder, Hiartad, Twngan og Hugurenn, Heimsins lodde vid Selskapenn, Veralldarennar vesta Taal, var sem Hunang i Silfur Skaal, enn þegar Gud mier Ord sitt gaf, ungvann fann

eg

eg þar Smeckenn af.

Þegar miin Augu ætttu hier, illar ad græta Misgiorder, Hvarnia Drope ei þraut þeim neirn, haurd voru þau sem Mylnu-Steirn. æ þad stordu sem eckert var, ei giættu Sælar Velferdar, ottast eg þeirra Angurn:a, ei muner DRottenn lijta þu.

Vilie eg Hondum beria æ Briooft, hwed er mier þaa Svared sloost, Bloode fullar þær eru af, Ord/ok til þessa Syndenn gaf: Hvert mun eg þeirra Hoggum med, hepta kunna mitt Vondsku Ged, semi Glæpunum sofnad er? saklaust eckert þvi finnst hiaa mier.

Opt hef eg syndgad aumur Mann, eingenn Tvnga þad reikna kann, minnstu ei, DRottenn, þoo æ þad, þijns Sonar Dauda giættu ad, þolad hefur hann þrnnga Neyd, Piarning stoora og Krossens Deyd, allt er þad sked fyrer aumann mig, ælijttu þad, eg beide þig.

Kiære JEsu, eg kalla æ þig, kom þu

og skoda særdann mig; Sian þaa Hegningu sem þu barst, syndugum þegar lijkur varst; Galled sem þier var gefed þaa, Gud Fader lagde Doomenn aa, ad swpa skullder settann þier, Sorgar Kaleik sem hæfde mier.

Hormung og Krossenn þenk aa þinn, þegar þijn Saala Maatt-dregenn, hroopade: Gud minn, Hvar fyrer, hefur þu viliad gleyma mier? Hvert muntu ecke heyra þaa, hvenær sem eg þig kalla aa, og yfirgefa ecke þann, sem aangrúd sturlar Samvitskann?

Fyrr enn af Gude giordur var, Grundvollur Jardar Biggingar, lietstu ad vijsu þocknast þier, þijda Myskun ad syna mier, og lagder wt af lifwsre Raad, Lyknar Urskurd og blessad Raad, i þier skillda eg wtvalenn, erfa Guds Riike og Fognudenn.

Vid þetta Loford helld eg hier, hvert alldrei kann ad bregdast mier, þijn Hiartans Elska æstwdlig, yfirgnæfer i Raad

vid

vid mig; siertu komenn ad sætta oss, sieka, fyrer þinn Deyd a Kross, aklagad get-ur eingenn þa, Assokun mun eg gilda sa.

Forlijka mig þinn Fodur vid, fra mier tak ei þitt Hialpræd͡id, leggur þu til þess Ordedeitt, allt mun syndugum gefens veitt, Illgiorda minna gleymest Gialld, gef eg mig allann þier a Valld, Lijferne minnu lijse þinn, liomande Dyr-dar Krapturinn.

Lattu mig kosta Kapps þar um, Kor-onu ad naa i Himnenum, leid þu mig DRottenn nu i Raad, so nyta giore eg þijn heilnæm Raad, ad læra þad sem Lofs-verdt er, Lausnare minn, til Dyrdar þier, Ordenn, Þankar og Athofn mijn, elske Rettlætes Bodenn þijn.

Skule ad vijsu steinkiast hier, Skerfur af Krossens Bikar mier, auktu blessadur þijda þaa, Þolennmæde og Von mier hiaa, þinna vegna eg þola vil, þoo ad Mootlæte falle til; Hollds Breiskleikenn maa þrætta um þad, þier skal eg DR-

otten

ottenn hænast ad.

Utsliettu hveria Jllgiörd mijn, aukest mier Naadar Huggun þiin, Saaluhiaalpinn þaa verdur viis, Veralldar Skraut eg ecke kiis; Sierhvad sem giördt er mier aa moot, af Monnum, skal ei reiknast Hoot: Eg bid Riettlætes upprenne, yfir mier Sool i Diirdenne.

Huggast og gledst þaa, Hiartad mitt! horfid er Sorgar Efned þitt, og Synda Stallded allt afmaad, enn þier i Christo gefenn Naad: Þig sier trwlofad hefur hañ, hrædstu ei leingur Daudans Bann, gladvær i DRottne siert, min Saal, Satans er unned Hreckia Taal.

Endurlausnarenn O JEsu, eg minn Breiskleika jaata nu, enn mig laangar þo epter þier, aangradt er Hiartad nu i mier, eg bid ad mætte Elskann þijn, innrætast vel i Brioostemijn, i sonnum Kiærleika, so eg þeim, seinast skilie vid þennañ Heim.

Þegar ad Dauda Dagur miñ, dimast tekur, og Lijkaminn, Saalena skilia verdur

rdur vid, vertu, JEsu, mitt Athvarfid, midt i Daudanum, so eg sie, saddur Uppristu Fognude, og odlest þar Dijrd, sem eingenn Mann, wttala maa, nie skijra kann.

## Packlætes Psalmur epter Berging.

med Himna Lag.

O JEsu Guddooms Glansinn hijr, 'gefest þier Lof og Vegsemd dijr, O JEsu Salar ædsta Skiool, yndælast Lioos og Glede Sool.

Er þinn Lijkame i allre Naud', Andar Fæda og Himna Braud, og þitt wtrutsed Unda-Blood, ydrande Hiarta Svolun good.

Saala mijn, JEsu, þackar þier, þann enn hana vel mettader, medann þu lifa lætur mig, lofa skal eg og prijsa þig.

Eg var ad sonnu i Synndum mijn, eikes verdur, enn Giædskann þijn, liet mig þoo Naadar Naalægdar, niota og þinar

Mysk-

Myſkunar.

Hwngradur eg i Anda var, og beid vid Dyrnar Myſkunar, Hiartad af Þorſta hroopa vann: Hialpe mier JEſu, Gud og Mann!

Hefur þu blijdur heyrt þad nu, hugg-ad og kennt mier, O JEſu, ad Holld og bleſſad Blooded þitt, betſt nære jafnann Hiartad mitt.

Hverſu gladvær er Hugur minn, heita maa eg nu Limur þinn, fyrer þaa klaara Kvolldmaaltijd, kallaſt eg Guds Barn fyrr og ſijd.

Barn þitt, JEſu, eg ordenn er, agta lijtt Diofuls Skadſemder, af þvi ad Bl-ood vor Undum þiin, er ſwo triggvaſta Hlij-fdenn mijn.

Fyrer þad, JEſu, ſæ eg hier, friidañ Riettlætes Skrwda i þier, Jnngang i Himna Hallſæted, hlijt eg fyrer þitt Bo-rdhallded.

Eg bijd þier, JEſu, Aſtar Koſs, ertu Salunnar dijrſta Hnoſs, velkomenn jafn-

ann vertu mier, vijst hef eg Laungun epter þier.

HErra minn giørdu Hiarta mitt, helg-an̄ Bwstad og Sæte þitt, so þu drottn-er þar yfir einn, annan̄ vil eg ei kioosa neinn.

Allt þad gott sem eg giora kann, gediast lææt þier, minn Hiaalpar Mann, forsmaa ei þad sem fram̄ er reidt, sæ eg ei annad Megned neitt.

Enn þoo ad þad sie ei sem ber, ecke lææt-tu mislijka þier, Hiartans er Ø̈vøyre he-lgur þinn, hærste Saalar Rijkdoomur minn.

Eign þijna forsmaa ecke þu, O JEsu kom og hiaa mier bw, af þvi ad Brwds-kaups Gaafaun good, gefst mier fyrer þitt Hiarta Blood.

Eg bid ad eg sie einn af þeim, er þu fæd-er i þessum Heim, nu fyrer Altar Orded þitt, endurlijfgadu Hiartad mitt.

Þu hefur, JEsu, mettad mig, mier gafst til Eignar sialfann þig, eg vil seigen̄

i Elsku þier, innrætast, þar til Lijfed
þver.

Annastu mijnar Athafnir, opnar læt
starda Naadar Dyr, Lijkama þijns eg
Limur sie, lifande i Von og Volgiæde.

Eg vil, minn Drottenn, deya mier,
diggur og trwr so reinest þier, Heilagur
vert mier Hiaalp og Traust, so Hiartad
elske þig Svikalaust.

Verolld i burtu vijk fraa mier, vollt
eru Gædenn oll hiaa þier, eg vil þig fram-
ar ecke siaa, og alldrei festa Þankann aa.

Saalar Vin minn eg vona aa, veit eg
mig brestur eckert þaa, eg skal JEsum i
Ast og Trw, elska medann eg life nu.

Bw þu Lausnare minn i mier, so meige
eg alltijd lifa þier, Hollded og Blooded
heilagt þitt, hresser Saalu og Geded mitt.

Drottenn sialfur mijn Arfleifd er,
Elsku margfallda syner mier, vertu þvi
JEsu Vægdar fws, velkomenn i mitt
Saalar-Hws.

Herbergiar gladvært Hiarta mitt
Holld

Hollð og dijrmætast Blodeð þitt, þinn er eg viist, og þu ert minn, þarf ei að ottast Skilnaðinn.

Þegar eg mijna aumu Aund, uppgefa skal i þijna Hond, yfir mier lijse Asiaan þijn, Augunum þoo að forle Syn.

Þesse blessaða Fæðann frij, færer mig Himna Sælu i, það dijra Blood, sem drack eg hier, dauðvona siidarst biargi mier.

Eg mun þaa viist með Engla Fiið, eins lijka smacka Kvolldmaaltiið, þier, minn JEsu, aa hægre Hlið, haa-Borðeð Lufsins settur við.

Lof, Æra, þiidust Þackargiörð, þier sie DRottenn aa Himne og Jörð, syngenn af ollum samhlioða, sie það, Amen, Haleluja.

## Psalmur, um HErrans Christi Kvoldmaaltiið.

Ton, Christe vier aller dockum þier,

O Jesu! fyrer Asiaan þiin, eg kiem sem einn Framande, sætustu Maaltiid Saalu miin, siaa, þu ert tilreidande, ormædda nærir Ond og Liif, emmeigenn sesar Daudans Kiif, Heimsins i Hrygda Stande.

Eg em Braud Liissins, ost so tier, Endurlausnarenn sæte, hver þar af etur, Hrygdei ber, Hwngrudum Sadning bæter, hver sem trwir af Hiarta aa mig, hefur Liifs Leid um Daudans Stig, og himnesft Eptirlæte.

O þu minn Hyrder, Liif og Lioos, leid mig þiñ Veginn saña, ad miin Saala þitt heilagt Hroos, hefie med Chor Englanna, gief mier þar þiina Goodsemd siaa, Guds Son milldaste Himnum aa, i Sal wtvaldra Manna.

Afþvi eg leita aumur þiin, Avi, læt mig þig finna, þitt Liifsins Braud er Lækning miin, liit til Hormunga minna, og gief þitt heilagt Hiarta-Blood, hugsvale mier aa Liifsins Slood, oll mun so Ang-

ist linna.

Eins sem Hiorturenn epter þreyr, ad ødlast Vatn rennande, O hvad mitt Sailar Andvarp meir, epter JEsu þreyande, æ jafnann skal æ Lijssins Leid, lika i minn Daudans Neyd, hann mun mier hugsvalande.

Af heitre Elsku Hiartad mitt, HErra JEsu, þig þreye. Avi! Nær mun Armædann stitt, ad eg þig skoda mege, enn medann Hiervist min ei þver, minn goode JEsu veit þu mier, þinni Naad þocknast mege.

Upptendra, JEsu, Andagt þa, i Hiarta og Sailu minni, ad Glaumi Heims eg gaange fraa, og Glise hanns ei sinne, enn med Jehanne elske þig, so Utfor miin sie farsællig, þoott Lijfi þessu linne.

Eg er Barn Daudans Eymdum i, enn þu Lijfid lifanda, Lausnare Heimsins leid mig þvi, fyrer Lid þins gooda Anda; Lampenn Trwar so lioomi minn, leiptri þad Blis i Himininn, med Reikelse ilmanda.

Leidsogu þiina med Liifsins Staf, lie-
na mier JEsu sæti, Lostum Synda so lax-
ti af, Luifernid Jdran bæti, raad þu mier,
HErra, Liifs aa leid, Leid miina giegnum
Daudañ greid, aa Fridarins fogur Stræti.

Kom JEsu goode! kom til miin, kom
þu, O Gud og Madur! Astriikañ Koss
af Elsku þiin, unn mier, HErra blessadur.
Eia, mitt Saalar Edla Lioos, i miinu
Hiarta Hviild þier kioos, so mun eg i Sorgum gladur.

Eg vil Packlætis Offur þier, eiliife
Kongur gialldu, Elsku þinni so uñir
mier, Æfinnar Tiid behallda: Sætt
þig vegsami Saala miin, Son
Guds, fyrir Astgiafer þiin, hier
og um Alldir Allda.

* * *
* *

